Jón Borgfirðingur.

Nýtt

# Stafrofskver

handa

## Minni manna börnum,

með nokkrum rjettritunar reglum,

og

dálitlu ávarpi til „hinna minni manna“

frá

útgefara **Ingólfs.**




Reykjavík 1853.

Prentað í prentsmiðju Íslands,

hjá E. Þórðarsyni.

# f g h i j k

# q r s t u v

# þ æ ö

| a | á | au | b | c | d | ð |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | | öi | bje | sje | dje | eð |

| í | j | k | l | m | n | o |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | joð | ká | ell | emm | enn | |

| ú | v | x | y | ý |
|---|---|---|---|---|
| | vaff | eks | i | í |

| e | ei | ey | è | f | g | h | i |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | ei | je | eff | gje | há | |

| ó | p | q | r | s | t | u |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | pje | kú | err | ess | tje | |

| z | þ | æ | ö |
|---|---|---|---|
| seta | þorn | | |

A B C D E

K L M N O

U V X Y

F G H I J

P Q R S T

Z Þ Æ Ö

## *Áðkvæðin.*

| | |
|---|---|
| Ab eb ib ob ub | Ba be bi bo bu |
| Að eð ið oð uð | Da de di do du |
| Af ef if of uf | Fa fe fi fo fu |
| Ag eg ig og ug | Ga ge gi go gu |
| Ak ek ik ok uk | Ha he hi ho hu |
| Al el il ol ul | Ka ke ki ko ku |
| Am em im om um | La le li lo lu |
| An en in on un | Ma me mi mo mu |
| Ap ep ip op up | Na ne ni no nu |
| Ar er ir or ur | Pa pe pi po pu |
| As es is os us | Ra re ri ro ru |
| At et it ot ut | Sa se si so su |
| Ax ex ix ox ux | Ta te ti to tu |
| | Þa þe þi þo þu. |

### *Nokkur eins atkvæðis orð*

með þremur bókstöfum.

Nef. Nös. Vör. Hár. Öxl. Bak. Tá. Tær. Fat. Gat. Bók. Rúm. Bær. Hús. Búr. Bás. Ull. Tog. Lár. Roð. Hey. Meis. Sól. Jel. Ský. Dyr. Dýr. Naut. Baul. Fax. Ofn. Þóf. Soð. Sót. Mús. Orf. Jól. Vín. Guð.

### *Nokkur eins atkvæðis orð*

með fjórum eða fleiri bókstöfum.

Kinn. Tönn. Hönd. Háls. Knje. Rist. Nögl. Brjóst. Lopt. Gólf. Sæng. Stag. Borð. Fjöl. Hjól. Skál. Skel. Skot. Stóll. Mjólk. Brauð.

Smjör. Kjöt. Korn. Tólg. Ljós. Vatn. Gull. Leir. Kind. Lamb. Skip. Sjór. Jörð. Steinn. Fjall. Land. Hrís. Barn. Bein. Hrafn. Fugl.

## *Nokkur tveggja atkvæða orð.*

Aug-a. Eyr-a. Höf-uð. Lær-i. Mag-i. Fíng-ur. Fót-ur. Góm-ur. Enn-i. Túng-a. Var-ir. Hak-a. Vest-i. Peis-a. Húf-a. Hatt-ur. Bux-ur. Sokk-ar. Lepp-ar. Klút-ur. Svunt-a. Skirt-a. Bæk-ur. Rokk-ur. Snæld-a. Kist-a. Kist-ill. Ask-ur. Nó-i. Kodd-i. Vegg-ur. Glugg-i. Rúð-a. Graut-ur. Rjóm-i. Eld-ur. Poll-ur. Pott-ur. Aus-a. Tunn-a.

## *Nokkur þriggja atkvæða orð.*

Hand-ar-bak. Höf-uð-skèl. Aug-a-steinn. Augn-a-brýr. Hár-lokk-ur. Gagn-aug-u. Hand-legg-ur. Fót-legg-ur. Hnapp-a-gat. Vest-is-bak. Háls-klút-ur. Höf-uð-fat. Ull-ar-lár. Sæng-ur-föt. Rekk-ju-voð. Skeið-ar-blað. Papp-írs-örk. Bæ-jar-hús. Dyr-a-hurð. Stig-a-gat. Bað-stof-a. Eld-húss-dyr. Lamp-a-ljós. Pen-ing-ar. Brodd-staf-ur. Vatns-föt-ur. Herð-ar-trje. Sum-ar-gjöf. Sól-ar-lag.

### *Barn og mús.*

Eitt sinn var barn, sem sat á stól og hjelt á bók, sem það las í; þá kom þar að ein mús og gèkk að ask, sem stóð við rúm, og mjólk var í, sem það barn drakk, er það var þyrst. Nú var sú mús mjög svöng og þyrst, og vill því fá sjer ögn af mjólk. Hún stökk þá upp á barm á ask, en sá að hún gat ei náð í mjólk, því sjálf var hún svo stutt, og gat ei teygt sig nóg; hún stökk þá í botn og stóð í mjólk upp í kvið. Nú sá það barn, sem las í bók, og leist ei vel á þá mús, sem drakk frá því. Það hljóp að ask, sem mús var í, og tók í hans lok, svo það fjell. Þá hló það barn að mús, sem komst nú ei burt og stóð í mjólk; hún sat þar svo um stund, og drakk eins og hún gat. En nú vill barn sjá hvað um mús er, tók í lok asks og lauk því upp. Þá stökk upp mús, en barn hrökk frá; hún hljóp út í skot og sást ei meir, en barn tók bók og las sem fyr.

### *Hrafn og mús.*

Eitt sinn sat hrafn út á vegg, og var net flækt um hans fót, sem hann gat ei náð af sjer. Þá sá hann mús, sem stóð þar hjá: Heyr, mús, mín góð! veit mjer nú hjálp með munn og tönn, kom þú til mín, og slít það net burt, sem fast er um minn fót. Mús hljóp

þá til, tók með tönn í net og sleit það burt, svo hrafn varð laus. En svei þeim hrafn, sem þá flaug á mús og reif á hol, svo hún ljet líf!

*Algengt verklag og athæfi.*

Ar-i rær opt út á sjó, og fær fisk í soð.

Ás-a mín eys mjólk í ask, og ber hann inn á lopt.

Auð-un át graut úr skál, en fjekk ei út á hann.

Björn ber meis-a upp í garð og moð í all-a bás-a.

Da-víð litl-i datt í poll og dró sig inn í bæ.

Eg-ill sit-ur út-i á stjett og er að les-a í kver-i.

Finn-ur gèt-ur ei fund-ið fjeð, fer hann því að leit-a

Guð-rún mal-ar kaff-e í kvörn og kèm-ur inn með boll-a.

Hall-ur karl-inn hraut og svaf, hann dró marg-a ís-u.

Ing-un mjólk-ar ær og kýr, og eld-ar all-an mat.

Jón járn-ar hest-a og hryss-ur, en rek-ur opt í blóð.

Kár-i kemb-ir ull í lár, en aldrei lýs úr höfði.

Lár-us læt-ur eins-og ljón og leik-ur sjer að öllu.

Mar-teinn mok-ar flór með rek-u, og myk-ju ber í haug.

Ní-els nenn-ir eng-u nem-a að nag-a bein.

Odd-ur all-a ösk-u út úr bæn-um ber í trog-i.

Páll á penn-a held-ur og pár-ar út blað-ið sitt.

Rós-a ríð-ur á hest-i og rek-ur lömb á fjöll.

Svan-borg sit-ur og saum-ar föt, sú kann að hald-a á nál.

Teit-ur tín-ir ber í ask og tap-ar vetl-íng sín-um.

Úlf-ar sterk-i eins og tröll upp á pallinn kèm-ur.

Vig-dís vef-ur og prjón-ar vetl-íng, bönd og lepp,

Ýng-var upp-i á pall-i all-an dag-inn elt-ir skinn.

Þór-dís þvær úr sokk, spinn-ur á rokk, en tek-ur ei á strokk.

Öss-ur slær með orf-i og ljá, en ill-a bít-ur hon-um.

### *Kis-a og krukk-a.*

Ein-u sinn-i var kis-a mjög þyrst, og kom þar að sem stór krukk-a stóð, er var mill-i hálfs og fulls af mjólk. Þá stekk-ur kis-a upp á krukk-u barm-inn, og horf-ir nið-ur í han-a. Seg-ir hún þá við sjálf-a sig: það er

svo djúpt nið-ur að drop-a þess-um, að jeg gèt ekk-i náð í hann, til að sval-a þorst-a mín-um; en kis-a gaml-a hef-ur leng-i ráð und-ir rif-i hver-ju. Hún hleyp-ur þang-að sem hún viss-i, að mik-ið var af litl-um stein-um. Hún tek-ur einn og einn af þeim í senn í munn sjer, stekk-ur með þá upp á krukk-u barm-inn, og læt-ur þá fall-a nið-ur í botn. Að þess-um stein-a burð-i var hún, þáng-að til mjólk-in hafði hækk-að svo upp und-ir barm-a, að hún gat vel náð til að drekk-a. Þá lá vel á kis-u, því nú drakk hún sín-a lyst, og gèkk svo burt og sagð-i við sjálf-a sig: sko göml-u kis-u, hvað hún var ráð-ug, að henn-i skyld-i kom-a slíkt í hug!

## *G è l t - i r.*

Hund-ur einn, sem hjet Gèlt-ir, náð-i eitt sinn upp úr pott-i væn-um bit-a af feit-u kjöt-i. Hann tók bit-ann í hvopt sjer, og hljóp með hann, eins og hann mest mátt-i, þar til hann kom að poll-i ein-um, sem var nokk-uð djúp-ur. Þegar hann leit nið-ur í vatn-ið, sá hann þar skugg-ann sinn; hann hugs-ar strax, að það sje ann-ar hund-ur, sem lík-a haf-i náð sjer kjöt-i, og vill Gèlt-ir ná í þann bit-a með; opn-ar hann þá gin-ið, og ætl-ar að þríf-a bit-ann af nafn-a sín-um; en þá fjell kjöt-ið úr kjapt-i hans nið-ur í poll-inn, og geng-u gus-

ur mikl-ar af vatn-i upp um allt trýn-ið á honum. Þá sá Gèlt-ir ó-happ sitt, snaut-ar í burt með sárt enn-ið og seg-ir við sjálf-an sig: sá fer marg-ur fýl-u ferð, sem fýk-ist í mjög mik-ið!

### *Kis-a og Mý sn-ar.*

Ein-u sinn-i hafð-i kis-a, sem Brand-ur hjet, lagt sig fyr-ir að sof-a og lá út í skot-i, eins og hún vær-i dauð. Þá kom-u þar að henn-i nokkr-ar mýs, og fór-u að tal-a um það sín á mill-i, að nú væri-i gam-an að skoð-a kis-u, og sjá hvern-ig hún vær-i í hátt. Þær gáng-a svo í kríng-um han-a, skoð-a han-a hátt og látt, og líst all-vel á han-a. Þá tíst-ir ein mús-in, sem hjet Ró-a, og seg-ir við hin-ar; mig láng-ar til að kyss-a kis-u; hún gjör-ir það þá, og rek-ur að henn-i koss. Þá tek-ur kis-a gaml-a við-bragð, mjálm-ar og seg-ir: bíð þú við! Brand-ur sef-ur ekk-i svo fast, og kysst-i nú Ró-u litl-u svo, að hún beit ut-an um höf-uð henn-i og bjó han-a sjer í spað.

## Nokkur **Hallgríms** mál **Pjeturssonar**.

1. Árla dags alla morgna við orð guðs haltu ráð.

2. Á kveldi hverju þú koma skalt, kveldreikning við þig sjálfan halt.

3. Í hreinni iðrun þú hvern dag vak, herskrúða drottins á þig tak.

4. Lát af illu en iðka gott, allan varastu hræsnis þvott.

5. Viltu þig þvo, þá þvo þú hreint, þel hjartans bæði ljóst og leynt.

6. Fæðu þína og fóstrið allt fyrir það guði þakka skalt.

7. Bænarlaus aldrei byrjuð sje burtför af þínu heimili.

8. Bæn þína aldrei bygðu fast á brjóstvit náttúru þinnar.

9. Varastu þig að reiða ríkt á ríkismanna hylli.

10. Farðu varlega, fallvölt er frænda og vina trúin.

11. Ókenndum þjer, þó aumur sje, aldrei tillegg þú háð nje spje.

12. Vinn þú það ei fyrir metorð manns að missa guðs náð og vinskap hans.

13. Vinn það ei fyrir vinskap manns að víkja af götu sannleikans.

14. Hygg að og herm hið sanna hvenær sem til er reynt.

15. Hræðst ei hótanir manna, halt þinni játning beint.

16. Athugagjarn og orðvar sjert einkum þegar þú reiður ert.

17. Á vald guðs allar hefndir fel, heipt lát ei hug þinn villa.

18. Í guðs ótta frá þjer glæpum hrind, góð vertu öðrum fyrirmynd.

19. Lausnara að líkjast þínum lof er þjer allra mest.

20. Í drottni ef viltu deya, drottni þá lifðu hjer.

*Helztu skilmerki orða og greina á milli.*

1. (,) *Komma* er sett þar sem málsgreinum skiptir, t. a. m. *af hverju mun það koma, að börn eru svo gjörn á að skrökva, og venja sig á ósannindi?* Líka er hún sett á milli einstakra orða í upptalningu, t. a. m. *Gróa er mjög grobbin, málug, raupsöm.* Þetta skilmerki þýðir, að hika skuli lítið eitt við í framburðinum, svo sem andartaki nemi.

2. (;) *Púnktkomma* skilur á milli liða sjerhverrar klausudeildar, einnig á milli málsgreina, sem ekki hanga saman sín á milli, en standa þó í jöfnu sambandi við hinn partinn af klausunni, t. a. m. *Boðorðin veiztu: þú skalt ekki drýgja hór; ekki mann vega; ekki stela; ekki bera ljúgvitni; heiðra föður þinn og móður.* Þetta skilmerki þýðir, að staldra skuli við í framburðinum, eða jafnvel anda.

3. (:) *Tvípúnktur* skilur framdeild klausu

frá apturdeild hennar, og brúkast líka þegar annars orð verða tilgreind t. a. m. *Hann tók þannig til máls:* Við þetta skilmerki skal anda.

4. (.) *Púnktur* er hið mesta þagnarmerki, og brúkast þegar heill þanki er á enda, hvort sem vera kann lengri eða styttri.

5. (?) *Spurningarmerki* brúkast að endaðri spurningu t. a. m. *hvað varð um kverið þitt?*

6. (!) *Upphrópunarmerki* brúkast eptir ákallanir, og þá menn dást að, furða sig eður kveina yfir einhverju, t. a. m. *Nú, faðir minn! þjer skuluð sjá það, hvort jeg verð myrkfælinn hjeðan af.* En það er aðgætandi, að hafa ekki Upphrópunarmerki nema á einum stað í senn, t. a. m. Nei, þú skalt ekki fá það!

7. (-) *Samtengingarmerki* brúkast, þegar orði er skipt milli lína, eða það er sett saman af tveimur, t. a. m. penna-fjöður.

8. (') *Úrfellir* sýnir að hljóðstafur sje úrfeldur, eða eigi úr að fellast í framburðinum t. a. m. *O sál' ódauðleg mín!*

Auk þeirra hjer töldu skilmerkja eru:

() Innilokunarmerkið.

— Þankastrykið.

„ Tilvitnunarmerkið.

:,: Ítrekunarmerkið.

§ Greinaskiptamerkið.
ɔ: Útskýringarmerkið.
† Dauðamerkið.

*Framburður nokkurra bókstafa í framandi nöfnum og orðum.*

Au lesist sem á t. a. m. Paulus les Pálus.

C fyrir framan e, i, y, æ, er lesið eins og s, t. a. m. Ceremonia (tíðaskikk); Cicero, Cyrus, Cæsar (manna nöfn).

C fyrir framan a, o, u er lesið eins og k, t. a. m. Cain, comma, curere (lækna).

C á undan öðrum stöfum lesist sem k, t. a. m. Clodius (manns nafn).

Ph í upphafi orðs lesist sem f, t. a. m. Pharao.

Ph í miðju orði lesist sem ff, t. a. m. Sophia.

Ph í enda orðs lesist sem f, t. a. m. Joseph.

T blístrar þegar það stendur í miðju orði fyrir framan i og annan hljóðstaf til, t. a. m. visitatia (skoðunarför) les visitatsia.

X lesist sem Ks, t. a. m. Xantippe les Ksantippe (konu nafn).

Z úttalast eins og feitt s í upphafi orðs, t. a. m. Zion les Síon.

Z í miðju orðs er optar lesið eins og ðs, t. a m Nazareth les Naðsaret.

Æ er lesið sem e, t. a. m. Æneas les Eneas (manns nafn).

Ou er opt lesið sem ú, t. a. m. courant (verðhæð á peningum) les kúrant.

*Tölustafirnir.*

1 2 3 4 5 6 7 8 9 0

*Rómversk tala.*

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| I. | V. | X. | L. | C. | D. | M. |
| 1 | 5 | 10 | 50 | 100 | 500 | 1000 |

| | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 | 7 | 8 | 9 |
| I | II | III | IV | V | VI | VII | VIII | IX |

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 10 | 11 | 12 | 13 | 14 | 15 | 16 | 17 |
| X | XI | XII | XIII | XIV | XV | XVI | XVII |

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| 18 | 19 | 20 | 21 | 29 | 30 | 40 |
| XVIII | XIX | XX | XXI | XXIX | XXX | XL |
| 50 | 60 | 70 | 80 | 90 | 100 | 200 |
| L | LX | LXX | LXXX | XC | C | CC |

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 300 | 400 | 500 | 600 | 700 | 800 | 900 | 1000 |
| CCC | CD | D | DC | DCC | DCCC | CM | M |

## Skáletur *(kursiv).*

*A a B b C c D d E e F f G g H h I*
*i J j K k L l M m N n O o P p Q q*
*R r S s T t U u V v W w X x Y y*
*Z z Þ þ Æ æ Ö ö.*

## Fraktúru stafrof.

A a B b C c D d E e F f
G g H h I i j K k L l M m
N n O o P p Q q R r S ſ s
T t U u V v W w X x Y y
Z z Þ þ Æ æ Ö ö.

## Gothiskt stafrof.

A a B b C c D d E e F f G g H h
I i j K k L l M m N n O o P p Q q
R r S ſ s T t U u V v W w X x Y y
Z z Þ þ Æ æ Ö ö.

# Fáeinar greinir

## um rjetta ritan nokkurra stafa og orða í íslenzku.

### *1. um* y *og* ý.

Hljóðstafinn y skal rita þar sem i-hljóð í orði er leitt:

1. af o (linu o) t. a. m. synir af son, þyldi af þoldu.
2. af u (linu u) t. a. m. gyðja af guð, fyndi af fundu;
3. af jö, ef það breytist ekki af hnegingunum í a, t. a. m. smyrja af smjör.

*Athugagr.* Þegar hneging orðsins breytir jö í a, kemur fram i af jö, t. a. m. hirðir af hjörð hjarðar.

4. í mörgum þeim orðum, sem eiga sjer enn samlík orð í dönsku með Öi t. a. m. byr (í dönsku Bör) dyr (í dönsku Dör); þó á að rita silfur (í dönsku Sölv) með i.

Hljóðstafinn ý skal rita þar sem i-hljóðið er leitt:

1. af ú (hörðu u) t. a. m. hýsi af hús, hýði af húð.

2. af jó, t. a. m. lýður af ljóðar, býður af bjóða.
3. af jú, t. a. m. flýgur af fljúga, sýgur af sjúga.

### 2. *um* ey.

Lausaklofann ey á að rita þar sem hann leiðist:

1. af au t. a. m. reyna af raun, eygja af auga.

*Athugagr.* Standi au í atkvæði á undan ng og nk, verður hann ekki að ey heldur að e, (eða eptir því sem nú er títt að ei), t. a. m. taung tengur, haunk henkur; því það ætti aldrei að rita au á undan ng og nk heldur ö; þess vegna töng, hönk, spöng, en ekki eins og nú er gjört, taung, haunk, spaung [1].

2. í mörgum þeim orðum, sem eiga sjer enn samlík orð í dönsku með Öi t. a. m. heyra (í dönsku „höre") eyra (í dönsku „Öre").

*Athugagr.* Þessar reglur eru helzt um afleidd orð. Ekki verða settar skýrar reglur um stofnorð, hver rita skal með Yi; það verður að læra af æfingu og eptirtekt á því, hvernig þau eru rituð í góðum fornsögum og nýum bókum, sem bezt eru stafsettar.

[1]) Að rjettu lagi á hvergi að skrifa harðan hljóðstaf (ɔ: hljóðstaf með broddi yfir), eða lausaklofa á undan ng eða nk í atkvæði.

### *3. um* **j** *(joð).*

Samhljóðandinn j á að ritast alstaðar, þar sem **je**-hljóð í atkvæði er á undan hljóðstaf, nema þar sem je-hljóðin eru fölsk, (þ. e. komin inn í málið á seinni öldum), en það eru þau í mjög mörgum atkvæðum, sem byrja á samhljóðanda, og e kemur næst á eptir, og eru þau nú merkt þar með öfugum skábroddi (`) t. a. m. mèr, þèr, sèr

*Athugagr.* Samhljóðendurnir k og g hafa nú á tíð í framburðinum je-hljóð með sjer eða í sjer, ætíð þegar e eða æ, i eða y kemur næst á eptir, og þarf engan skábrodd að sètja hjá þeim, t. a. m. geð, kær, gin, kyn.

### *4. um* **ð** *(eð).*

ð en ekki d á að rita alstaðar, nema

1. i upphafi á orðum og atkvæðum, t. a. m. dyr, dauðdagi.
2. þar sem dè tvöfaldast í atkvæði, t. a. m. broddur.
3. í atkvæði næst á eptir l, m, n, lf, lg, bm og ng, t. a. m. öld, fremd, stund, skelfdur, fylgd, kembdur, strengdur.

### *5. um* **c, q, x** *og* **z.**

Samhljóðendurnir c og q þarf hvergi að rita. X er víða haft fyrir gs (með

hörðu hljóði) og ks í rótum stofnorða, en ekki í hnegingum.

Z á að ritast fyrir s, þar sem á undan því er fallið burt í framburðinum d, ð eða t, og samhljóðandi kemur á eptir í sama atkvæði, t. a. m. mállýzka fyrir mállýðska, íslenzkur fyrír íslendskur, brezkur fyrir bretskur.

Opt sýnist viðsjárvert, hvar rjett sje að rita z í hnegingum sagnarorða í þolandi mynd. En sá sem kann málfræði, má alstaðar fylgja þar þeirri reglu, að rita z, en ekki s, í þeim hnegingum þolandi myndar, sem enda á st-hljóði, ef hin samsvarandi hneging gjörandi myndar endar á d, ð eða t, t. a. m. (þèr) brutuð, (þèr) brutuzt; (eg hefi) steypt, (eg hefi) steypzt.

Hvergi er rjett að hafa z í enda orðs, nema í smáorðinu unz.

*Athugagr.* Þó z sje rituð fyrir s, ss, eða st í sumum fornritum, þá er ekki farandi eptir því.

### *6. um* **n** *og* **nn.**

Í endingum kvennkendra og hvorugs kynsorða, í nafnorðum og lýsingar orðum, sem enda á n-hljóði, á ekki að rita nema eitt n, t. a. m. konan, börnin, engin.

En í endingum karlkendra orða, sem enda á **n**-hljóði, á að rita nn, nema í þolanda lýsingarorða t. a. m. maðurinn, enginn, góðan.

Smáorðið „en“ á að vera alstaðar með einu **n**, nema þegar það þýðir sama sem *heldur enn*, eða *enn þá;* (það svarar þá þýðingu danska orðsins „end“), t. a. m. farðu, *en* gættu þín! Hann er betri *enn* bróðir hans. Hann lifir *enn*.

### 7. *um burtvörpun, samandrátt og ummyndan stafa.*

D eða ð, sem ætti að standa aptan við ýmsa samhljóðendur, en á undan t, fellur jafnan burtu í framburði og riti, t. a. m. gleymt fyrir gleymdt af gleymdur; gilt fyrir gildt af gildur; nefnt fyrir nefndt af nefndur; hart fyrir harðt af harður; bygt fyrir bygðt af bygður.

Ddt í enda atkvæðis verður að tt (ekki að dt), t. a. m. ytt fyrir yddt af yddur; brytt fyrir bryddt af bryddur.

Ð verður að t á undan t í enda atkvæðis, t. a. m. glatt fyrir glaðt af glaður; hratt fyrir hraðt af hraður.

'R (nú lesið ur), sem staðið hefur í enda atkvæðis á eptir l eða n, er orðið að l eða n, t. a. m. holl, fyrir hol'r,

seinn fyrir sein'r, neinn fyrir nein'r, einn fyrir ein'r, steinn fyrir stein'r. Þess vegna er rangt að rita seirn, neirn, eirn, steirn.

*8. um nokkra stafi, sem stundum er ranglega aukið við orð, eða í þau.*

Þessir eru helzt:

ð í þettað fyrir þetta
g í þaug fyrir þau
n í gjarnan fyrir gjarna
s í sýssla fyrir sýsla
k í skjaldan fyrir sjaldan
r 1. í þolanda fleirtíla sumra karlkendra orða, t. a. m. fæturnar fyrir fæturna; feðurnar fyrir feðurna; bræðurnar fyrir bræðurna.
2. í eiganda og þiggjanda eintíla kvennkendra orða, og eiganda fleirtíla allra kynja í lýsingarorðum, t. a. m. heillrar, heillri, heillra, fyrir heillar, heilli, heilla; seinnrar, seinnri, seinnra, fyrir seinnar, seinni, seinna.

*9. um fáeinar rangar hneygingar.*

Karlkendu nafnorðin, sem enda á ir, og í eiganda á is, eru nú jafnan ranghneigð, t. a. m. læknirs, læknir, læknarar, læknara, læknurum, í staðinn fyrir, lækn-

is, lækni, læknar, lækna, læknum. Eins á að hnegja: hellir, stýrir, hirðir og fleiri þvílík.

Annað stig lýsingarorða, og hluttekningarorð gjörandi myndar í sagnarorðum, eru nú jafnan látin vera eins í öllum hneigingum og enda á **i**, (í stað þess að karlkyns endingin á að vera í eintíla **a**, nema í nefnanda; hvorugs kyns endingin á þar líka alstaðar að vera a); því segja margir og rita t. a. m.

betri manns fyrir betra manns,
betri manni fyrir betra manni,
betri mann fyrir betra mann;
vinnandi manns fyrir vinnanda manns, o. s. frv.
vinnandi verks fyrir vinnanda verks, o. s. frv.

Í sagnarorðum láta margir þriðju persónu fleirtíla, í skilmálahætti gjörandi myndar í liðinni tíð, enda á u í staðinn fyrir **i**, sem þar ætti að vera, t. a. m.

(Ef þeir) yrðu (hræddir) fyrir yrði,
(ef þeir) stæðu (upp) fyrir stæði,
(ef þeir) hlypu (út), fyrir hlypi.

Sagnarorðið (eg) *hefi*, er nú í fyrstu breytingum (í eintíla líðandi tíðar í framsagnarhætti gjörandi myndar) allt af ranghneigt í daglegu tali og víða í bók-

um, svo því lendir saman við sögnina (eg) *hef* (þ. e. eg lypti). Eg „hefi" hneg-ist þannig: ég hefi, þú hefir, hann eða hún eða það hefir, o. s. frv., eins og al-almennt er hneigt.

### 10. *um samansett orð.*

Þegar tvö orð eða fleiri eru sett í eitt orð, eða t. a. m. eina samansetta hug-mynd, eru menn jafnan vanir að rita hvert þvílikt samansett orð í einu lagi, einsog eitt orð. En það mun því að eins vera rjett, að fyrra orðið hafi þá breyzt eða styzt í samansetningunni. Standi fyrra orðið óbreytt, er rjettara að rita þau sitt í hvorju lagi, t. a. m. eiga orð-in: guðsifjar (fyrir guðs sifjar) flugtrauð-ur (fyrir flugar trauður), sáttgjarn (fyrir sáttar gjarn), harðsnúinn (fyrir harður snúinn), að ritast hvort í einu lagi, því fyrri orðin í þeim hafa stytzt í saman-setningunni. En orðin t. a. m. alltaf, útyfir, margskonar, þingsvitni, penna-fjöður eru óbreytt af samandrættinum, og eiga því að ritast í tvennu lagi, t. a. m. allt af, út yfir, o. s. frv.

*Athugagr.* Ef einhverjum þykir vafi á að rita það orð, sem honum finnst saman sett, í einu eða tvennu lagi, skal hann

setja í huga sjer fyrra hluta þess aptur fyrir hinn; finnist honum það rangt mál, þá er samansetta hugmyndin eitt orð, og á að ritast svo, t. a. m. gjarn sátt fyrir sáttgjarn yrði rangt, og því er sáttgjarn orðið eitt orð; en vitni þings fyrir þingsvitni, gæti verið rjett, og því er þings vitni ekki eitt orð, heldur tvö.

---

Þessa stuttu og einfaldlegu tilraun mína að semja reglur, til að kenna rjettritan eptir, dirfist eg að sýna þeim, sem kenna unglingum þess háttar, og bið þá virða á betra veg, og lagfæra eða semja aðrar reglur um sama efni, sem heldur mætti hafa not af. Eg hefi ekki getað komizt hjá, að hafa við nokkur málfræðis orð í reglum mínum, og hefi eg orðið að búa til sum af þeim, því eg hefi enga íslenzka orðfræði sjeð á íslenzku. Þessi orð veit eg enginn skilur, nema hann þekki þess konar fræði. Enda hugsa eg fáum vinnist að kenna rjettritan, nema hann kenni jafnframt eitthvert orðfræðis ágrip á íslenzku. Þess konar ágrip þyrfti menn að eiga. Eg hefi búið mjer

til eitt ofur stutt, og væri eg fús til að sýna það, ef eg vissi ekki, að svo mjög margir geta samið þvílíkt langtum betur. Eg hefi líka heyrt, að eitt þess konar ágrip sje til á prenti. En galli kvað vera á því handa leikmönnum, að það er íslenzk málfræði á dönsku.

*Sigurður Gunnarsson.*

---

# Mínir heiðruðu minni menn!

Þar eð latínuletur er nú farið að tíðkast mjög á bókum, sem prentaðar eru á máli voru, og þar eð jafnvel guðsorða bækurnar eru farnar að birtast með því líka, þá virðist þegar mál til komið, að farið sje sem fyrst að kenna börnum að þekkja letur þetta; og því hefur það nú um hríð vakað fyrir huga mínum, að vjer þyrftum að fá Stafrofskver með latínuletri eingöngu. Jeg vissi reyndar, að til var kver með letri þessu, þar sem var „Lestrarkver Rasks sáluga handa heldri manna börnum". En bæði hjelt jeg að kver þetta væri nú óvíða til, og svo áleit jeg líka, að reynandi væri að bjóða Stafrofskver með latínuletri handa minni manna börnum, fyrst Rask sálugi hafði komið með þess konar kver handa meiri manna börnum. Jeg vissi samt af því, að meðal þessara minna minni manna voru þeir enn þá til, sem litu hornauga til latínuletursins, og kölluðu það heiðna letrið, er eigi væri hafandi á annað, enn römmustu Tröllasögur og Rímur. En jeg þóktist þó líka hafa orðið var við það, að flestir ljetu fljótt af þeirri skoðun, er þeim var sagt, að t. a. m. Englendingar og Frakkar, sem allra manna bezt eru mentum búnir, hefðu aldrei annað letur á bókum sínum, og ekki á sjálfri Biblíunni, enn einmitt latínuletur. Jeg var því reyndar ekki svo hræddur um, að hinir minni menn mundu forðast Stafrofskverið mitt vegna latínuletursins; en hitt gat jeg heldur ímyndað mjer, að bæði hinir heldri og líka mínir minni menn mundu, ef til vildi, horfa í það, er kver þetta vill láta hafa við nokkuð

annan kennslumáta, enn menn hafa áðnr átt að venjast. — Ekki ætla jeg mjer að setja út á Barnagull Bjarna sálnga Arngrímssonar; það hafa of margir menn lært að stafa og lesa á því til þess, þar sem það nú í svo mörg ár hefur verið að kalla má eina Stafrofskverið landa minna. Það er líka eitthvað svo viðfeldið við það kver yfir höfnð að tala, að von er þó það hafi komið sjer vel; andinn í því er bæði blíðar og barnalegur, og vitnar um hinn lipra höfund þess. Þegar börnin eru búin að læra að þekkja stafina, lætnr Barnagullið þau byrja á atkvæðisorðnm, sem sum eru með öllu þýðingarlaus, og mörg að minnsta kosti svo, að eigi er hægt að gefa barninu nokkra hugmynd um það, sem þau nefna. Það getur vel verið að þetta sje rjett aðferð og girnileg fyrir barnið; en það má jeg segja, að hún er leiðinleg fyrir kennarann. Verið hef jeg þar á bæ, sem maðnr sat 3 vetur við sama barn yfir þessnm atkvæðisorðum, og heyrði jeg sjaldan nokkurt orð af viti. Sjálfur hef jeg nokknð fengizt við að kenna börnum að stafa, og hefur mjer æfinlega leiðst atkvæðalesturinu; jeg hafði því aldrei mikið við hann; og svo hef jeg kennt börnum að lesa, að undir eins og þau þekktu stafina, ljet jeg þan fara að stafa í Sálmabókinni, og kveða að fyrst eins atkvæðis orðum, svo tveggja atkvæða orðum, og svo úr því rjett eins og verkast vildi. Mjer fannst börnnnnm fara rjett eðlilega fram á þessu, en mjer varð kennslan að munum skemmtilegri, er jeg ljet mjer annt nm að gefa barninu ætíð hngmynd og skilning á hverjn orði, sem það stafaði.

Á þessari hngmynd er nú byggt þetta Stafrofskver handa minni manna börnnm; því það hefur þan orð ein handa barninn að stafa, sem hægt er jafnóðum að gefa því hugmynd um, þar öll orðin eru hlnta heiti annaðhvort á barninn sjálfn, eða þá næst í kringum það, eða þá heiti þeirra hlnta, sem hvert barn þekkir af daglegri sjón eða tali.

En af því jeg ímyndaði mjer, að mörgum kynni að þykja aðferð þessi of frábreytileg því, sem þeir höfðu áður vanizt, þá hef jeg tekið að k v æ ð i n úr hinu s t u t t a S t a f r o f s k v e r i, og látið prenta næst stafrofinn; álít jeg að þan megi nægja til að liðka barnið, áður enn það kemur til atkvæðis orðanna sjálfra. Að öðru leyti þykist jeg ekki þurfa að gjöra neina grein fyrir innihaldi kvers þessa; það er bæði að efninu til og allri orða lögun sniðið eptir því, sem jeg áleit börnum bezt henta; og jeg vona að flestir, sem annars vilja nýta kverið, geti eins haft gagn af því að sínu leyti handa börnum, eins og af Barnagullinu. Samt er þetta ekki nema von mín, en engin vissa; því sjálfur hef eg enn ekki reynt, hversu kverið kann að gefast. Jeg hef mest og bezt samið það handa sjálfum mjer til reynslu á barni, sem fyrir mjer liggur að kenna að stafa, ef guð lofar. Má því vel vera, að jeg, þegar til kemur, reki mig á einhverja galla, sem jeg nú sje ekki.

Viðvíkjandi stafrofinu sjálfu vil jeg geta þess, að fyrst er stafrofið að stafamyndunum til; og skal fyrst kenna barninu að þekkja myndir þessar, og nefna þær með rjettu nafni. Svo koma aptur sömu stafir með ýmsri breytingu, sem verður á sumum þeirra í lestrinum; og verður það aldrei of ýtarlega brýnt fyrir þeim, sem segja börnum til, að gefa nákvæmar gætur að allri breytingu og mismun á hljóði .t a. m. í **a** og **á**, **e** og **é**, **u** og **ú**, og venja þegar barnið strax við, að hafa rjett eptir hvert hljóð fyrir sig. Eins verða menn að gæta þess, að venja barnið á að nefna tvíhljóðendurna sem einn hljóðstaf, t. a. m. **au** sem **öi**, og sömuleiðis **ei** og **ey** hvort fyrir sig sem einn hljóðstaf.

Það er ætlun mín, að þegar barnið er orðið nokkurn veginn leikið í að lesa smásögur þær, sem eru í kveri þessu, þá megi fara að láta það lesa í hverri bók, sem

vera skal, og þar til þykir hentugust, því til frekari og fullkomlegrar æfingar í lestri.

Ritreglurnar, sem jeg hef látið prenta aptan við Stafrofskver þetta, eru frá prestinum sjera Sigurði Gunnarssyni á Desjarmýri í Múlasýslu, eins og eptirmálinn við þær sýnir. Hann sendi mjer reglur þessar fyrir ári síðan, í því skyni, að jeg ljeti prenta þær í Þjóðólfi; en mjer þókti þeim þar eigi sem bezt valinn staður, og fannst þær betur eiga við í þessu kveri. Því fyrir það get jeg nú álitið, að eins og kver þetta fær börnum hinar fyrstu reglur til að læra að lesa rjett málið, svo fær það líka námfúsum unglingum í hönd-ur nokkrar reglur til að geta ritað það rjett. Það sem þá er nýtilegt í kverinu, þess njóti allir vel bæði ýngri og eldri!

Ritað á Góuþrælinn 1853.

*Útgefarinn.*



